Magnús Grímsson:

# Bónorðsförin.

Rv. 1852.

# BÓNORÐSFÖRIN.

## LEIKUR

í

ÞREMUR ÞÁTTUM.

---

*Útgefandi:*

**M. Grímsson.**



---

**Reykjavík.**

Prentuð í prentsmiðju Íslands á kostnað útgefandans.

1852.

## Til lesendanna.

---

Jafn vel þó að jeg geti ekki haldið, að neinn muni firrtast leik þessum, verð jeg þó að taka það fram, að hann stefnir ekki, svo jeg viti til, fremur á einn en annan. En fari svo, að það komi upp úr kafinu, að hann sje *náttúrlegur*, eða með öðrum orðum: að menn sjái sig í honum, þá er jeg ánægður með, að hafa gefið hann út. Lærdómurinn, sem í honum er fólginn, og sem tekinn er fram í niðurlagi hans, er svo auðsjeður, að jeg þarf ekki annað en benda þar á hann.

Fari svo, að leikur þessi gangi bærilega út, þá mun jeg bráðum gefa annan út, og þá væri mjer kært, að hafa heyrt áður vitrari manna aðfinningar á þessum, svo þær yrðu teknar til greina við hinn síðari. Hver veit þá nema einhver kynni að koma sá, er gæti samið þá leiki, sem hjer yrðu leiknir; því það er jeg viss um, að ef að t. a. m. Bræðrafjelagið í Reykja-

vík eða einhverjir aðrir gæti komið einhverju þess konar til leiðar, þá myndi það verða oss til gagns og gamans, eins og öðrum þjóðum.

Reykjavík 16. d. febrúarmán. 1852.

*Útgefandinn.*

---

## Persónurnar.

*Árni,* ríkur bóndi á Eyri.

*Oddný,* kona hans.

*Guðný,* dóttir þeirra.

*Þórður,* bóndason á Hólum.

*Bjarni,* lausamaður í Bæ, drykkjumaður og slarkari.

*Þrúður,* vinnustúlka á Hólum.

*Haldór,* fátækur bóndason, unnusti Guðnýjar.

---



## Fyrsti þáttur.

(Fer fram í stofunni á Hólum).

### *Fyrsta atriði.*

Þórður.

**Þ***órður*. (Stendur við gluggann og talar við sjálfan sig). Skyldi jeg þá eiga að trúa því, að jeg fengi ekki hana Guðnýju, ef jeg færi þess á leit? Nei, ekki get jeg ímyndað mjer það. Jeg stend til að verða einhver efnaðasti maðurinn í sveitinni, og þá, veit jeg ekki, hvað þau geta sett út á mig, foreldrarnir hennar. Nei, hann Árni — hann sjer um sig, og jeg þori að segja, að hann gjörir það undir eins. En hvernig á jeg nú að koma mjer fyrir með bónorðið? Það er það, sem jeg veit ekki. Jeg vildi, að mjer hefði verið kennt að biðja mjer konu, í staðinn fyrir að það var verið að troða í mig smáa stíln-

um í spurningakverinu. Af því hefði jeg nú gagn, en hinu aldrei. Já, það vildi jeg, að jeg kynni að biðja mjer konu! (Hann hugsar sig um stundarkorn). Já, það er satt, svona skal jeg hafa það. Jeg verð fyrst að fara til hans Árna, og kalla hann á eintal, og semja við hann; því ef hann lætur tilleiðast, þá er nú leikurinn búinn. Já, þetta var blessað og gott ráð; svona skal jeg hafa það. En hvernig á jeg að koma orðum að því við hann; það var nú skollinn sá, að jeg kann það ekki. Mikil bannsett vandræði eru að fást við þetta. Það kom mjer þó aldrei í hug, að það mundi vera svona örðugt að biðja sjer konu, af því það er eitt af því, sem svo ógnarlega mörgum hefur tekizt. Jeg hef heldur aldrei hugsað neitt um það; því er ver og miður! En jeg má nú til hjeðan af; því svona get jeg ekki verið lengur. (Hann hugsar sig enn um). Já, nú sje jeg, hvernig jeg skal hafa þetta allt saman. Á svei því! svona skal jeg fara að því.

*Annað atriði.*

Þórður. Bjarni.

*Bjarni.* (Kemur inn og er hálfdrukkinn). Sæll og

blessaður, Þórður minn! Núna þarf jeg margt við þig að tala, eins og vant er.

*Þórður.* Komdu sæll, lagsmaður. (Þeir kyssast). Tylltu þjer niður, gjörðu svo vel!

*Bjarni.* (Sezt niður, og slengir hattinum og svipunni og vetlingunum sínum á borðið). Já, núna þarf jeg margt við þig að tala elskuvinurinn góði! Jeg fer altjend til þín, þegar mjer liggur á. Jeg trúi þjer fyrir öllu; því jeg þekki þig.

*Þórður.* (Alvarlegur). Jeg vildi það líka, Bjarni minn, að þú mættir óhætt trúa mjer fyrir orði. En lítið lið held jeg þjer verði í að leita mín, ef þjer liggur á.

*Bjarni.* Sleppum því, Þórður minn! En vinur er sá, sem í raun reynist, og jeg þekki þig. (Klappar á öxlina á honum, tekur upp látúnsbúinn bauk úr vasa sínum, hristir hann, og leggur við eyrað og rjettir Þórði). Viltu ekki í nefið, lagsmaður? Jeg held það sje ekki narr. (Hann dæsir). Já. núna liggur mjer á að tala nokkuð við þig lagsmaður minn góður.

*Þórður.* (Er búinn að taka í nefið og fær honum aptur baukinn). Þakka þjer fyrir, lagsmaður.

*Bjarni.* (Tekur við bauknum, stútar sig og dæsir mikið). Jeg fór sumsje að heiman í morgun í þeim fasta

ásetningi að fara hingað, og biðja — jeg trúi þjer fyrir öllu — Þórður minn, og biðja hennar Þrúðar litlu.

*Þórður.* (Honum verður bilt og gjörir sjer upp hlátur). Ha, ha, ekki nema það þó, kominn í þig giptingahugur. Það líkar mjer.

*Bjarni.* Víst er svo, lagsi; en það er ekki nóg. Jeg kann ekki að biðja stúlku, og það er nú ólukkinn sá. Þess vegna er jeg kominn hingað til þess, að ráðfæra mig um það við þig.

*Þórður.* (Utan við sig). Það held jeg fari nú ekki svo illa, Bjarni minn! (Hann stendur nú upp, og fer að ganga um gólf). Jeg held þú leitir nú ullar í geitahúsi núna. (Við sjálfan sig). Það væri þó ekki svo fjarri að heyra, hvernig hann ætlar að fara að. Hver veit, nema jeg geti haft gagn af því? (Við Bjarna). Þú hefur þó víst hugsað þig um það, áður en þú fórst. Það er munur eða jeg, sem aldrei hefur dottið neitt þess konar í hug. Hvernig ætlar þú að fara að, lagsi?

*Bjarni.* (Stútar sig og dæsir). Að sönnu hef jeg nú hugsað um það dálítið, og jeg skal nú segja þjer aðferðina, sem jeg hef hitt á, svo segir þú mjer, hvernig þjer lízt á hana.

*þórður.* Jú, það skal jeg gjöra. Segðu frá. (Hann sezt niður).

*Bjarni.* Fyrst datt mjer í hug að fara beinlínis til hans húsbónda hennar, og biðja hann um að gefa mjer hana undir eins. Jeg ætlaði að segja honum frá öllum mínum ástæðum og efnahag; því jeg þóttist vita, að ef jeg gæti unnið hann, þá væri allt búið. Hann mundi þá biðja stelpuna að gjöra svo vel og eiga mig. Jeg vissi það líka, að svona fara margir að því að biðja sjer konu, og að það hefur þeim dugað, góðu herrum.

*þórður.* Jæja, ætlarðu þá ekki að hafa það svo líka, fyrst þessi aðferð er reynd og góð? (Við sjálfan sig). Jeg hef þá ekki fyrstur fundið þessa aðferð upp.

*Bjarni.* Jeg er nú á báðum áttum með það; það er nú einmitt það. Jeg sje það sumsje í, að þó jeg fari svona að, og jeg fái stúlkuna, eins og mjer er nær, að halda að verða mundi, þá veit jeg þó ekki, hvort hún vill mig, eða hvort hún yrði góð við mig. En það er ekkert gaman að eiga að búa saman við þá konu, sem er vond við mann. Jeg hef sjeð nóg af þess háttar rifrildi og illdeilum.

*Þórður.* Satt er nú það. En hvernig ætlarðu þá að fara að, ef þú hefur ekki þessa aðferð?

*Bjarni.* Margar eru til aðferðirnar, til að mynda sú, að reyna fyrst stúlkuna og vita, hvað góð hún er í sjer, og hvort hún hefur nokkra tilhneigingu til manns.

*Þórður.* Þetta er víst allrabezta ráð, en jeg er hræddur um, að það verði ekki svo gott að koma því við, nema maður sje á sama bæ, og stúlkan er. Eða hvað segir þú um það, lagsmaður?

*Bjarni.* Ha, ha, ha. Og ekki held jeg mjer verði nein skotaskuld úr því. Það er ekki langrar stundar verk, en það þarf lag til þess; því allt vill lagið hafa, eins og Grettir sagði forðum. Ha, ha, ha. Það er auðsjeð, að þú ert ekki vel að þjer í þessari mennt.

*Þórður.* Það segir þú satt. Svei því korninu jeg skil í þessum biðlabrögðum. Jeg hef allt af ímyndað mjer, að það væri varla fyrir stúlku vinnandi, að reyna hana, því það þyrfti svo langan tíma til þess.

*Bjarni.* (Stútar sig og býður Þórði í nefið). Það er öðru nær, lagsmaður minn. Jeg skal nú segja þjer aðferðina. Maður kemur svona aðvífandi á bæinn til stúlkunnar, og er þá drukk-

inn, það er að segja, læzt vera drukkinn, og það dauða-drukkinn. Maður drafar og talar nærri því óráð, svo engan grunar neitt, að maður gjöri sjer það upp. Svo lætur maður eins og sjer verði snögglega íllt, þegar maður er búinn að sitja stundarkorn inni, og lætur eins og maður ætli að selja upp. En á meðan hefur hann allt af gát á stúlkunni, og tekur eptir, hvernig fólkið talar um mann; helzt hvernig stúlkan talar; hvort hún er stimamjúk við mann og vorkunsöm.

*Þórður.* En þá verður maðnr líka að passa, að stúlkan sje heima.

*Bjarni.* Já, það er nú sjálfsagt; það er lika hægt; því maður hagar sjer eptir því, hvort stúlkan er heima eða ekki.

*Þórður.* Ætl' nokkur maður hafi reynt þessa aðferð?

*Bjarni.* Það er mjer nær að halda. Jú, þeim hefur orðið gott af því fleirum en einum, sem jeg þekki.

*Þórður.* En hvernig fer, ef stúlkan reynist illa?

*Bjarni.* Þá má reyna hana aptur, eða þá fara til annarar.

*Þórður.* Það er svo bezt, að á fleirum sje völ.

*Bjarni.* Sjaldan er skortur á því, og ekki veit jeg, að neinum hafi orðið það að meini. En

hvor aðferðin heldur þú nú, að sje betri? Það er það, sem þú verður að segja mjer.

*Þórður.* (Alvarlegur). Það er bágt að segja, Bjarni minn. Jeg held þær sjeu báðar beztar.

*Bjarni.* Já, það held jeg og, en það þarf meira lag við þá seinni; því hún er nokkuð vandasöm; því í henni er svo mikið hyggjuvit og kænska. En — hún er ekki fyrir alla; ha, ha. Hvað segir þú um það?

*Þórður.* Það er satt. Seinni aðferðin er rjett fyrir þig.

*Bjarni.* (Stútar sig og býður Þórði). Svo helduðu það, lagsi? Þá er jeg ánægður; því mig langar til að reyna hana, og gefa út til þess daginn í dag. Fengi jeg nú í einu staupi, þá er jeg hvergi hræddur um karlinn; því nú er jeg öldungis mátulega góðglaður.

*Þórður.* (Nær upp flösku úr kistunni og staupi, og hellir á fyrir Bjarna). Það er skömm, að jeg skuli ekki hafa boðið þjer í staupinu. Gjörðu nú svo vel, og jeg óska þjer gangi vel. — En heyrðu, ef Þrúður reynist illa; hvað gjörirðu þá?

*Bjarni.* (Drekkur úr staupinu). Hvað helduðu? Jeg ætla jeg muni fljótt yfirgefa hana, og slá

mjer á annað, rjett eptir því sem andinn inn gefur mjer.

*Þórður.* (Hlæjandi). Og karlinn! Altjend er þjer óhætt!

*Bjarni.* Já, ekki skal jeg koma fyr heim aptur, en jeg er búinn að krækja í einhverja. (Hann stendur upp og þrífur plögg sín). En hvað ætla jeg hugsi. Dagurinn líður, og allt er ógjört. En hvað jeg vildi segja: er hún Þrúður ekki heima?

*Þórður.* Jú, hún kemur bráðum hingað inn í húsið; því hún situr hjerna altjend á milli mála við prjóna sína.

*Bjarni.* Jeg ætla þá að bregða mjer út snöggvast, lagsi, og látast svo koma að, þegar jeg held, að hún sje komin hingað. En vertu blessaður og sæll; því jeg sje þig kann ske ekki seinna, ef illa fer; því þá flýti jeg mjer í burtu. (Þeir kveðjast, og Bjarni fer út).

## *Þriðja atriði.*

### Þórður.

*Þórður.* (Gengur um gólf, og er órólegur). Mikið rækalli átti jeg bágt með mig núna. Mig langaði til að segja honum Bjarna upp alla

söguna um það, hvað mjer bjó í brjósti, en svei mjer ef jeg þorði það; því hann var hálfdrukkinn. En írafárið, sem í hann er komið með að biðja sjer konu. Jeg skil ekkert í honum. Hann kom svo flatt upp á mig, eins og skollinn úr sauðarleggnum. Það var nærri því eins og hann vissi inn í huga minn, og væri stundum að hæða mig. Greyið Bjarni, það eru þó taugar í honum, þó hann sje nú svona í aðra röndina nokkuð hvikull og óstöðugur. Það er bágt, að hann skuli ekki vera ráðsettari, en hann er. Hann hefði þó getað verið búinn að eignast nokkuð, ef hann hefði haft nokkurn gáning á því, sem honum áskotnast. Og þó þykist hann vera efnugur; jæja, sá hefur nóg sjer nægja lætur, það má segja um hann. (Sezt niður). En hvað á jeg nú að gjöra? Ætli jeg ætti að fara á stað í biðilsförina, eða láta það bíða, og vita fyrst, hverja aðferðina Bjarni hefur, og hvernig honum reiðir af. Nei, jeg þori það ekki. Hver veit, hvert hann fer. Hann talaði á þá leið, að hann mundi reyna við fleiri, ef sú fyrsta..... Já, skollinn veit, hvað hann fer. (Hann stendur upp). Nei, jeg skal ekki eiga neitt

undir honum. Jeg fer, það er líka illu bezt af lokið. (Hann fer út).

## *Fjórða atriði.*

### Þrúður.

*Þrúður.* (Kemur inn í sama bili, og Þórður fer út, hún sezt við borðið, fer að prjóna, og syngur fyrir munni sjer á meðan).

Bý jeg sveita sóknum í,
silungsfull hvar eð á deilir völlunum vænum;
hvar eð fjöllin hærri' en ský
hlífa kostarík dölunum grænum;
hvar sauðfjeð um fagra hlíð
flokkum gengur, en síðspenar baulur um bakka,
yrki' jeg tún og engi fríð
axi jafn valið hey ber í stakka.
Fylla bú mitt kosta kjör:
kjöt, ull, hvíta, flot og smjör.
Afleif kvittar kostnaðinn;
kátur una við hag skal jeg minn.
Fylla bú mitt kosta kjör:
kjöt, ull, hvíta, flot og smjör.
Útlönd gæði meta mín,
mjög þeim býtta' jeg við hagnað og vín.

## *Fimmta atriði.*

### Þrúður. Bjarni.

*Bjarni.* (Hefur hlýtt á endann á söngnum, og ryðst

inn í því bili, sem Þrúður endaði versið. Hann fer æði drykkjumannslega). Sæl og blessuð Þrúður mín!

*Þrúður.* Komdu sæll! (Þau kyssast).

*Bjarni.* (Sezt hjá Þrúði við borðið, og fleygir hatti, svipu og vetlingum út í loptið). Hvað er í frjettum Þrúður mín?

*Þrúður.* (Þurleg). Allar frjettirnar eru hjá aðkomendum.

*Bjarni.* (Þokar sjer nær Þrúði). Ekki altjend, góðin mín. (Fer að klappa henni á kinnina). En hvað þú ert iðin, og fljót að prjóna.

*Þrúður.* (Bist). Hvað er þetta? Kreystu mig ekki sundur, og vertu ekkert að flangsa við mig. (Hún ætlar að standa upp). Lof mjer snöggvast fram fyrir.

*Bjarni.* Æ, nei, ekki strax. Það fer svo vel um okkur. Vertu góð Þrúða mín, og talaðu við mig. Jeg skal ekki koma við þig neinstaðar. (Hann þokar sjer frá henni, og rjettir upp hendurnar). Sko, svona má jeg þó vera.

*Þrúður.* (Hlæjandi). Jú, svona máttu vera, ef jeg fæ einungis að komast fram hjá þjer.

*Bjarni.* (Er nú farinn að drafa). Jæja, gott, Þrúða mín. Vertu góð við mig; því jeg er hálfdrukkinn.

*Þrúður.* (Bist). Drukkinn, já það ertu, og einmitt þess vegna má jeg og verð að vera slæm við þig.

*Bjarni.* Svo, hvernig stendur á því?

*Þrúður.* Það stendur svo á því, að drykkjulætin ykkar eru mjer ógeðfeld. Þegar þið eruð orðnir drukknir, karlmennirnir, þá verðið þið eins og bjánar, og vitið ekki, hvað þið gjörið. Þið verðið þá langt um verri en dýrin.

*Bjarni.* Áttu þá að vera slæm við mig fyrir það, þó mjer hafi orðið það á að verða drukkinn?

*Þrúður.* Þjer verður það býsna opt á, og jeg held þú ættir nú að vera orðinn varkárari með þig.

*Bjarni.* En áttu samt að vera slæm við mig fyrir það?

*Þrúður.* Já, það er víst. Jeg get ekki annað, en verið slæm við þig fyrir það, að þú skulir svo opt drekka þig út úr, og gjöra þig að athlæi svona að gamni þínu, allt eins og þjer þyki vænt um, að liggja í spýjunni undir hunda og manna fótum.

*Bjarni.* (Volulegur). Æ, Þrúða mín góð! Vertu

góð við mig í þetta sinn, þá skal jeg aldrei framar drekka.

*Þrúður.* Jú, jú. Jeg ætti sumsje að kaupa það af þjer, að þú gættir sóma þíns hjer eptir, fyrst þú hefur aldrei gjört það hingað til. Ekki nema það þó?

*Bjarni.* Ekki nema það þó? Enn hvað þú ert hörð við mig, vesaling. (Færir sig nær henni og klappar á öxlina á henni. Innilegur). Jæja Þrúður mín, þú ert sá fyrsti maður, sem hefur sýnt mjer, hvað ósæmilegt það er að vera drukkinn, og jeg skal aldrei gleyma þjer fyrir það. Má jeg ekki muna til þín til dauðans.

*Þrúður.* (Hlær kaldahlátur). Ha, ha. Jú guð-velkomið. En jeg er hrædd um, að þú gleymir mjer bráðum. Þið eruð sjaldan vanir að vera minnisgóðir, drykkjurútarnir.

*Bjarni.* (Innilegur). Hef jeg þá nokkurn tíma prettað þig, Þrúða mín?

*Þrúður.* Nær hefur þú lofað mjer nokkru, eða getað prettað mig?

*Bjarni.* (Við sjálfan sig). Mikill aumingi er jeg. (Við Þrúði). Mjer ætlar að verða íllt. Æ, blessuð Þrúða, vertu nú ekki slæm við mig, vesaling. (Hann fer að fá klýju).

*Þrúður.* Svei, þarna eruð þið komnir drykkjumennirnir.

*Bjarni.* Jeg gat ekki að því gjört.

*Þrúður.* (Önug). Það er rjett. Þú getur ekki að því gjört, að drekka, eins og svín, og liggja einatt í spýjunni, eins og hundur. Hvað ætli þú getir gjört að því? (Hún stendur upp).

*Bjarni.* (Er að fá velgjuköst). Ætlarðu nú að hlaupa frá mjer, á meðan mjer er flökurt?

*Þrúður.* Jeg held þjer sje eins gott að æla í einrúmi. Jeg vil ekki trufla þig á meðan.

*Bjarni.* (Tekur í hana). Æ góða...

*Þrúður.* (Slítur sig af honum). Svei, svei! (Hún fer).

## *Sjötta atriði.*

### *Bjarni.*

*Bjarni.* (Nú fara drykkjulætin af honum að mestu. Hann talar við sjálfan sig). Já, ekki lýst mjer á þessa aðferð við hana Þrúði. Hún er öldungis afleit. Jeg hefði aldrei trúað því, að hún væri svona hörð í sjer, og þegar jeg kom inn, þótt ist jeg viss um sigurinn, þar sem jeg hitti svo æskilega á, að hún var einsömul. (Hann hugsar sig um). Jæja, það tjáir ekki að tala um það. Frá er hún Þrúður. Ekki þarf jeg að reyna

við hana í annað sinn. Jeg held jeg ætti að hypja mig, og reyna að komast út og burtu, svo lítið beri á. — En hvert á jeg þá að fara? (Hugsar sig um). Bíðum við; það er bezt að láta nú daginn ganga í kvonbænir. Jeg held jeg verði að reyna við hann Árna á Eyri, og biðja hennar Guðnýjar. Hún er nú einhver efnilegasta stúlkan hjer um sveitir. Þá get jeg líka reynt hina aðferðina. Það er satt. Tarna var óskaráð, og það skal jeg hafa. Jeg skal, svei mjer þá, ekki dextra hana Þrúði í annað sinn. Hún skal ekki þurfa að setja upp prjedikara andlitið út af drykkjuskapnum í mjer, ótætis járnsálin. — En hvað er jeg að hugsa. (Hann stendur upp og tekur hatt, svipu og vetlinga og skýzt út). Farið þið vel, jeg skal ekki troða niður af ykkur skóna næsta daginn, bannsettir óþokkarnir. (Hann fer).

## *Sjöunda atriði.*

### Þrúður.

***Þrúður.*** (Hún hefur allt af staðið í göngunum, og hlustað á eintalið hans Bjarna. Þegar hann er kominn út, kemur hún inn, og sezt aptur niður við borðið með prjónana sína). Nei karl, þetta ráð dugir ekki við mig. Betur fór að jeg var stygg við þig. Jeg

get þó ekki að mjer gjört að hlæja að vitleysunni í karlmönnunum, ha, ha. Aldrei hef jeg vitað annað eins og þetta. Hvað þeim dettur allur þremillinn í hug. Ekki nema það þó. Bjarni kemur og læzt vera drukkinn og ætlar að hafa mig góða með því. Jú, jú. En gaman væri að vita hina aðferðina hans, sem hann ætlar að reyna á Eyri. Já, hvernig skyldi honum takast þar, óræstis flagaranum. — Jeg held jeg verði að biðja hann húsbónda minn að lofa mjer út að Eyri, og vara hana Guðnýju við þjer, hróið mitt. — En, nei. Það liggur ekki á; hún liggur varla á lausu fyrir öðrum eins körlum. Það er bezt að lofa honum að reyna sig.

Farðu' í enda, farðu!
flærðir engar spar'ðu;
uns þú sjer við endir,
hvar lendir!

Það er úti' um Þrúði,
þá færðu' aldrei brúði,
enda þó þú ælir
og vælir.

Eins mun Guðný unna
aldrei slíkum klunna,
bakið vona' jeg hún brjóti
á þrjóti.

Ráðlegt er að reyna
rekk ódrukknum meyna,
er hann vill að unna
sjer kunni.

Bónorðsförin Bjarna
búin er sú arna.
Hún er til að hjala' um
og skjala.

Brugðizt hefur Bjarna
bogalistin svarna.
Hlusta' jeg, uns jeg heyri
frá Eyri.

## Annar þáttur.

(Fer fram í stofunni á Eyri).

### *Fyrsta atriði.*

Halldór. Guðný.

*Halldór.* Helldurðu, að það sje þá alls engin von nje vegur til þess, að hann faðir þinn leyfi okkur að ná saman?

*Guðný.* Jeg held ekki. Hann vill fá handa mjer ríkan mann og ráðsettan, og góðan búmann, eins og hann er sjálfur. Mjer er þetta svo vel kunnugt; því jeg heyrði, að þau voru að tala um þetta hjerna um daginn, hann og

hún móðir mín. Hún sagðist vilja láta mig eiga lærðan mann, prest eða sýslumann, eins og hann faðir sinn hefði verið.

*Halldór.* Á jeg þá öldungis að sleppa því að nefna það núna; hvað heldurðu um það?

*Guðný.* Það held jeg. Þar að auki megum við vara okkur á því, að þau komi ekki að okkur, tveimur einum; því jeg get ekki neitað því, að jeg hafi fengið bágt hjá þeim fyrir það, að þau halda, að það sje vingott á milli okkar.

*Halldór.* Heldurðu, að þú getir sjeð um, að þau gipti þig engum núna fyrst um sinn?

*Guðný.* Það er nú eins og jeg hef sagt þjer fyrri, Halldór minn, að jeg verð líklega ekki látin vita af því, fyr en allt er um garð gengið, eða því verður lítill gaumur gefinn, þó jeg vilji ráða nokkru um það. Jeg skal samt gjöra allt, sem mjer er unnt til þess að giptast engum nema þjer, og aldrei skal jeg svíkja þig, Halldór minn!

*Halldór.* Jeg er ekki hræddur um það. Jeg ætla þá að fara í burtu í þetta sinn, og nefna ekkert við hann föður þinn. En mundu eptir mjer.

Guðný. Já mundu eptir mjer,
sem man þig alla daga,
og unnir einum þjer.
Halldór. Einni ann jeg þjer,
alla mína daga!
Bæði. Mundu eptir mjer,
sem man þig alla daga!
(Þau kveðjast; Halldór fer burtu).

## *Annað atriði.*

Guðný.

*Guðný.* (Stendur við stofugluggann, og horfir á eptir Halldóri). Vesalings Halldór. Þú elskar mig, og jeg elska þig. Þú ert vel að þjer og efnilegur maður — en þú ert fátækur. Þú elskar mig, og þó verður þú að fara í burtu frá mjer. Fátæktin þín skilur á milli okkar. Jeg er rík, eða það lítur út fyrir jeg verði rík — jeg elska þig — en má þó ekki gjöra það, nema svo enginn viti. Grimmur er sá, sem meinar mjer það, auðurinn minn og fátæktin þín. — Halldór minn, nú fer þú burt, en þú fer með mig með þjer í huga þínum; þú fer með elskuna til mín. Nær ætl' þú komir aptur? — Mjer er nóg, að þú elskar mig. — Fátæktin þín er sterk, og sterk eru ógnunarorð foreldranna, en þó er elskan,

sem við elskumst, enn sterkari. — Hún er hrein — jeg elska þig, af því að jeg virði þig, og mannkosti þína og vænleik — og sú elska, sem er sprottin af virðingu fyrir því fagra og góða, hlýtur fyr eða síðar að sigra allt annað. — Vertu sæll, Halldór minn; guð og hamingjan fylgi þjer. Hana nú, þar hverfurðu mjer hinu megin við ásinn. — Vertu alltjend sæll —

Og mundu eptir mjer,
sem man þig alla daga,
og unnir einum þjer.
Einni anntu mjer
alla þína daga.
Einum ann jeg þjer
alla mína daga.

(Hún sezt niður, og fer að lesa í bók, sem liggur á borðinu).

## *Þriðja atriði.*

Guðný. Þórður. Árni.

*Þórður.* (Kemur inn í húsið, þar sem Guðný situr). Sæl vertu Guðný mín!

*Guðný.* (Daufleg). Komdu sæll. (Þau heilsast). Viltu ekki setja þig niður. (Hún leggur bókina á borðið og ætlar út).

*Þórður.* (Sezt). Liggur illa á þjer, eða er þjer illt?

*Guðný.* (Leitast við að harka af sjer). Nei, en jeg er hálf syfjuð. Segirðu ekkert nýtt í frjettum?

*Þórður.* Nei, jeg frjetti engan hlut. Það hefur enginn verið á ferð lengra að. En hefur enginn komið hjerna í dag?

*Guðný.* Ónei, ekki svo jeg viti, eða muni eptir. Eða áttirðu von á því?

*Þórður.* Nei, jeg spurði svona hins vegar að því. En hvernig sæki jeg annars að ykkur, eruð þið frísk?

*Guðný.* Ójá, lof sje guði. Hjer eru allir vel frískir.

*Þórður.* Það gleður mig. En jeg sæki miður að þjer, en jeg vildi, það sje jeg út um brekánið.

*Árni.* (Kemur inn í þessu bili). Sæll vertu Þórður minn, þú ert nýr gestur hjerna.

*Þórður.* (Stendur upp á móti honum). Sæll vertu (þeir heilsast). Hann faðir minn bað að heilsa.

*Árni.* Guð blessi hann. (Sezt hinumegin við borðið). Tylltu þjer niður, Þórður minn, á meðan þú segir frjettirnar, og kastar mæðinni.

*Þórður.* (Sezt niður gagnvart bónda). Jeg er nú

ekki frjettafróður maður; það kemur aldrei neinn lengra að til mín. . . ..

*Árni.* Það læt jeg vera. Ekki koma fleiri hjerna. En má jeg ekki bjóða þjer í staupinu. Hver veit nema þjer renni þá betur upp frjettirnar á eptir.

*Þórður.* Þakka þjer fyrir. Jeg er sáttur með að þyggja eitt staup. Annars er jeg ekki vanur að drekka mikið.

*Árni.* Það gjöri jeg ekki heldur, og það vil jeg ekki, að neinn gjöri. (Hann stendur upp og lýkur upp kistu; tekur upp staup úr handraðanum, og kallar á Guðnýju, sem þá er að fara út og segir henni að þurka upp staupið. Síðan fer hann ofan í kistuna aptur, og nær upp flösku, en er æði lengi að því.

*Þórður.* (Við sjálfan sig). Það er rjett falleg stúlka hún Guðný. En jeg skil ekki í henni, hvernig hún er; hún er svo daufleg, og mjer fannst hún ekki vilja lofa mjer að sjá framan í sig. En það lagast vona jeg, og varla trúi jeg öðru, en mjer gangi erindið. Það væri hart, ef öðruvísi færi. Já, það væri ekki gaman, að missa af svo laglegri stúlku og efnugri. En hún er svo einhvern veginn við mig, eins og hún sje feimin. Hver veit, nema henni . . . . nei,

það er ótrúlegt, jeg skal ekki gjöra mjer neinar of góðar vonir .... þó; jeg veit ekki .... nei.

*Árni.* (Setur flöskuna á borðið). Það ætlaði að standa lengi nokkuð á því arna, Þórður minn.

*Guðný.* (Rjettir honum staupið). Hjerna, faðir minn!

*Árni.* (Hellir á og býður Þórði). Gjörðu svo vel. (Við Guðnýu). Segðu henni móður þinni að hita handa okkur vatnsopa.

*Guðný.* Jeg skal gjöra það. (Hún fer út).

*Þórður.* Hvað sagði pósturinn gott, eða kom hann ekki hjerna um daginn?

*Árni.* Jú, hann kom hjer, en varðist allra frjetta.

*Þórður.* Svo. Það er þó betra, en annað verra. Það er líka optast eitthvað bogið með, þegar mikið er í frjettum.

*Árni.* Já, satt er það líka. Hvernig líður annars heima hjá þjer?

*Þórður.* Vel, lof sje góðum guði.

*Árni.* Er hann ekki orðinn ofur farinn hann faðir þinn?

*Þórður.* Æi jú jú. Hann er meir' en það; hann er samt allt af á ferli.

*Árni.* Það kalla jeg nú mikið. Mjer er allt af vel við hann karlinn, síðan vorum í skiprúminu saman.

*Þórður.* Þá held jeg honum sje meinlaust við þig. Og opt minnist hann á samveruna ykkar.

*Árni.* Svo, gjörir hann það karlhróið; Hann var nú góður í ganginn í þá daga, enda þurfti hann ekki altjend að liggja á liði sínu.

*Þórður.* Hann minnist löngum á margt skrýtið, sem þá bar við.

*Árni.* Hann ætti að geta það, gamli maðurinn, ef honum er ekki of mikið aptur farið. Getur hann nokkuð gengið um sitt enn?

*Þórður.* Allt er nú minna um það. Þó er hann með í öllum ráðum.

*Árni.* Já, honum er óhætt með það, sem við kemur ráðdeild. Hann á víst þriflegt bú, gamli maðurinn?

*Þórður.* Jú, jú. Það er líka dágóð jörð, Hólarnir. Hann hefur nú hjer um bil 200 roskins fjár á henni, og hefði þó meira, ef það hefði ekki gengið svo mikið í jarðarverðið.

*Árni.* Hefur hann keypt jörð, sá gamli? það hef jeg ekki heyrt.

*Þórður.* Já, hann keypti Hólana um daginn fyrir 700 spesíur, og borgaði þá út í hönd.

*Árni.* Þú segir frjettir, kalla jeg. Hvað? ertu ekki einbirni? færðu ekki hokrið í heilu lagi eptir karlinn?

*Þórður.* Jú.

*Árni.* Nú mig minnti það líka. Þú verður ekki öldungis á hjarni, held jeg, á síðan. Eða ætlarðu nú ekki að fara að búa bráðum?

*Þórður.* Jú, í ráði er það. Jeg á að taka við í vor. Hann sagði það, hann faðir minn, að fyrst hann hefði getað keypt jörðina, þá væri hann nú ánægður. Mjer væri nú engin vorkun á að bjargast.

*Árni.* Skyldi það vera satt? Því nú ertu að sögn allra mesti búhöldur, eins og karlinn.

*Þórður.* Já, það er nú að miklu leyti óreynt enn, og . .

*Árni.* Vert' ekki að því arna. Það þarf ekki annað en sjá þig, til þess að sjá, að þú ert mesti búmaður. — En ef þú ferð nú að búa í vor, þá þarftu líka bústýru. Ertu búinn að fá hana?

*Þórður.* (Roðnar). Nei, það er nú sem á stendur.

*Árni.* Þú verður að halda mjer til góða, að jeg gjöri mjer svona dælt við þig, og spyr þig von og úr viti. Það er af því jeg var svo kunnugur honum föður þínum, og svo þjer líka. Já, en hvað jeg vildi segja — já, þú þarft að fara að fá þjer bústýru.

*Þórður.* Jú, en jeg held það gangi skrikkjótt fyrir mjer. Jeg þori hvergi að nefna það:

*Árni.* Sei, sei, og því ekki það?

*Þórður.* Mjer er lítið um ráðskonu eða bústýru. Jeg hef sjeð, hvernig það hefur gengið hjá honum föður mínum, síðan hún móðir mín sáluga dó.

*Árni.* Já nú skil jeg. Þú vilt fá þjer konu, og hver heldurðu segi þjer nei. Nefndu mjer eina.

*Þórður.* (Kafrjóður). Já, þó jeg geti nú það ekki.

*Árni.* Svona látið þið, ungu mennirnir. En bíddu við, jeg verð að skreppa út snöggvast. Jeg kem undir eins aptur. (Hann stendur upp og fer út).

*Fjórða atriði.*

Þórður.

*Þórður.* (Hann rjettir sig upp, þurkar sjer í framan og ræskir sig). Það fór að fara um mig, þegar hann fór að nefna bústýruna. Jeg held jeg hafi roðnað, en það er vest, ef hann hefur tekið eptir því. Mjer fannst tal hans allt svo skrýtið. Og ekki get jeg haldið, að hann neiti mjer um hana Guðnýju sína. Jeg veit samt ekki. — Hvernig á jeg nú að fara að, þegar hann kemur inn aptur? Hann fór, þegar hæst stóð, og jeg var rjett kominn á flugstig, með að stynja því upp. — En ef hann hefur nú líka farið fram, til að ráðgast eitthvað við hana konu sína. Það væri nú eigandi. — En ef hann byði mjer hana Guðnýju, þegar hann kemur inn aptur? Jeg veit ekki, hvað úr mjer yrði; ó það væri gaman. Að fá hana Guðnýju, sem á að erfa svo mikinn auð. Ha, ha, ha, ha! Nei, nú er jeg orðinn of vongóður og of kátur. En ef hann býður hana ekki, hvað á jeg þá að gjöra? (Hugsar sig um). Jú, brjóta upp á bústýrutalinu aptur. Það var óskaráð að tarna. Jeg ætla að biðja hann að vísa mjer á stúlku, og svo þegar hann er búinn að telja þær allar upp, þá ætla jeg að

segja: „Já, en þú hefur ekki talið hana dóttur þína enn“. Já, svona skal jeg hafa það. Allt er með ráðum gjörandi, segir hann faðir minn. Guðsjelof, þar kemur hann aptur, hann Árni. Nú vildi jeg, að allt færi vel. (Hann setur sig í stellingarnar). Nú má jeg samt leggja mig til og vanda mig.

## *Fimmta atriði.*

Þórður. Árni.

*Árni.* (Kemur inn og er hálf hlæjandi). Jeg held þjer sje farið að leiðast, Þórður minn. Þú átt sjö dagana sæla að sitja hjerna, og enginn talar orð við þig. (Hann sezt niður). Það var kominn maður úti, sem vildi tala við mig.

*Þórður.* Nei, mjer leiðist ekki; það er öðru nær. Ha, ha, ha, ha. Opt hlær maður að hugsun sinni.

*Árni.* Mjer þykir vænt um, að þjer leiðist ekki. Jeg hjelt þú værir öldungis dauður úr leiðindum.

*Þórður.* En hver var kominn úti?

*Árni.* Ha, ha, ha, ha. Það var hann Bjarni í Bæ.

*Þórður.* (Verður bilt við). Svo. Hvaðan skyldi hann hafa komið núna, karlinn?

*Árni.* Jeg held hann hafi komið neðan úr sveit. Jeg spurði hann raunar ekki að því, svo jeg veit lítið um ferðir hans, nema erindið hingað. Jeg er hræddur um, að honum hafi þótt snubbótt að finna mig. Ha, ha.

*Þórður.* Jeg fer að verða forvitinn.

*Árni.* Það er óhætt. Hann kallaði á mig á eintal, og fór að segja mjer, hvað hann ætti til, og telja spesíurnar sínar og hestana, og var heldur vígamannslegur á meðan. Þegar hann var búinn með þenna formála, kom nú erindið sjálft, en það var, að biðja mig um hana Guðnýju litlu. En jeg sagði, að mjer væri hún ekki svo útföl, að jeg gæfi hana alþekktum ónytjungi, eins og hann væri.

*Þórður.* (Verður undarlegur við). Jeg kann að trúa því. Hún er of væn og efnileg til þess.

*Árni.* Það þyki mjer að minnsta kosti. Henni liggur ekki á heldur; hún er barn að aldri enn.

*Þórður.* Svo, það hugsaði jeg, að hún væri nógu gömul til að giptast.

*Árni.* Jú, almennilegum manni. Hún er 19 ára.

*Þórður.* Það grunaði mig. (Ræskir sig). Já, en hvað jeg vildi segja. Jeg ætlaði, að tala betur við þig um það áðan. Hvar ætl' jeg ætti að reyna að fá mjer bústýru? segðu mjer það.

*Árni.* Ætlarðu nú að fá þjer bústýru, mjer fannst á þjer áðan, að þú vildir helzt konu?

*Þórður.* (Feiminn). Já, jeg meinti það nú raunar.

*Árni.* Jæja. Jú það er hægt að segja, hvar þú skalt fá hana. Far þú til hennar Þrúðar litlu.

*Þórður.* (Akar sjer). Já, já. Hún er væn, en hún er fátæk, og svo eru líka allir hennar ættingjar. Hún yrði held jeg aldrei nein búkona, hún Þrúður.

*Árni.* (Spottskur). Þú þarft varla að hræðast fátækt, þó það bættist ekki við auðinn þinn með konunni. — En þá eru Brekkusysturnar.

*Þórður.* Jú, jú. En jeg held þær hugsi nú hærra, stúlkurnar þær.

*Árni.* Svo. Og ekki held jeg.

*Þórður.* Eru ekki fleiri enn?

*Árni.* Jú, það held jeg sjálfsagt.

*Þórður.* (Lítur undan). Er engin nærskyldari þjer?

*Árni.* (Kankvís). Ha, ha. Jú hún Guðný litla. Áttu við hana?

*Þórður.* Já. Jeg ætlaði að biðja þig um hana . . en . .

*Árni.* En — en hvað? Hefurðu nú sleppt því?

*Þórður.* Nei, langt frá. Nei, því jeg gjöri það nú.

*Árni.* Er þjer alvara með það?

*Þórður.* Já, það veit guð mjer er alvara.

*Árni.* Þá er jeg ánægður. En þú verður að eiga hana undir eins í vor.

*Þórður.* Já, þó fyrri væri.

## *Sjötta atriði.*

Þórður. Árni. Oddný.

*Oddný.* (Kemur inn með tvo kaffibolla, sinn handa hvorum, Þórði og Árna. Guðný kemur á eptir henni með sikurskál, sem hún setur á borðið, og fer svo út aptur). Komdu sæll Þórður minn! Viltu ekki drekka dálítinn vatnssopa?

*Þórður.* (Tekur við bollanum, og heilsar Oddnýju). Sæl og blessuð. Guðlaun!

*Oddný.* (Rjettir manni sínum hinn bollann). Viltu' ekki drekka þenna dropa, hjartað mitt, honum

Þórði til samlætis. (Við Þórð). Mjer þykir lakast, að það er bæði íllt og lítið, og ekki nema skolp. Þú mátt muna komuna þína hingað. — En hvað segirðu tíðinda Þórður minn? Þið hafið altjend eitthvað nýtt þarna í Hólahverfinu, þar er allt af mannaferðin um.

*Árni.* (Kankvís). Til er, að hann gæti sagt þjer eitthvað nýtt, ef hann vildi. En er þjer ekki sama þó jeg gjöri það, góðin mín?

*Oddný.* Því ekki það?

*Árni.* (Lítur framan í Þórð og brosir, en Þórður lítur undan). Jeg er búinn að gefa honum Þórði hana Guðnýju litlu. Jeg vona þjer þyki vænt um það hjartað mitt.

*Oddný.* (Hlær kaldahlátur). Það lá að, að það yrðu tíðindi, sem þú segðir. En helдurðu jeg trúi þjer núna? Nei, jeg þekki þig svo vel, að jeg veit, að þú ert ekki svo fljótur á þjer, þó um minna sje að gjöra.

*Árni.* Já, þetta er nú satt samt, hjartað mitt. Jeg sá ekki, að jeg gæti valið henni annað betra hlutskipti.

*Oddný.* (Alvarleg). Þú mátt segja, hvað þú vilt um það, en jeg er ekki farin að trúa þjer

enn. Þú hefðir þó líklega ekki gjört það svona öldungis, án þess að lofa mjer að vita af því.

*Árni.* (Alvarlegur). Þú ert ekki trúgjörn núna þykir mjer. Jeg segi þjer samt satt, að jeg er búinn að gefa honum Þórði hana Guðnýju litlu. Jeg hjelt, að það mundi varla standa á þínu samþykki.

*Oddný.* Það lá altjend að, að jeg mundi ekki mega ráða neinu um það. Jeg held þó, að jeg eigi fullt eins mikið með hana Guðnýju litlu, og þú, og jeg mætti vel eiga orð í, þegar hún væri gipt burt. (Hún verður áköf). Og jeg segi þjer nú, að því skal jeg ráða, að hún skal aldrei verða konan hans Þórðar. Hún skal eignast einhvern annan; hún ætti skilið að verða embættismannskona, hún Guðný litla.

*Árni.* (Bistur). Er þjer alvara að taka af mjer ráðin?

*Oddný.* Já, það er víst, í þetta sinn skal jeg ráða nokkru líka. (Hún tekur bollana og sykurskálina á borðinu, og ætlar út).

*Árni.* Gættu að þjer kona. Hann Þórður er ríkur og einbirni. Það er ekki víst hvort annar eins býðst svo fljótt aptur.

*Oddný.* Mjer er sama um það. Hún er ann-

ars meir' en fjárþurfi, hún Guðný. En þú horfir allt af í auðinn.

*Árni.* Og þú í kjólinn.

*Oddný.* Jæja, jeg skal samt ráða. Guðný skal aldrei eiga hann Þórð. Verið þið sælir upp á það. (Hún fer út).

*Árni.* Lof mjer að tala við þig, kona. (Hann fer út á eptir henni). Komdu líka Þórður minn. Við skulum vita, hvernig okkur gengur við hana inni í baðstofunni. (Þórður fer).

## Þriðji þáttur.

(Fer fram í stofunni á Eyri).

### *Fyrsta atriði.*

Guðný. Halldór. Þrúður.

*Halldór.* En helduröu, að hann fái þig þá ekki samt, hann Þórður, Guðný mín!

*Guðný.* Nei, jeg er viss um það. Þau hafa lengi verið að keppa um það öll þrjú inni í baðstofu. Móðir mín er öldungis frá því.

*Þrúður.* En hann Bjarni í Bæ? Hvern fann hann í dag, þegar hann kom hjerna?

*Guðný.* Hann fann hann föður minn, og jeg vissi ekki af því fyr en áðan; því þá kom er-

indið hans á góma inni í baðstofunni. Hann fjekk nú undir eins nei.

*Þrúður.* Það gilti líka einu. Betur hann væri hýddur, bannsettur flagarinn sá!

*Halldór.* En hvar er hún móðir þín, Guðný mín? hún gjörði boð eptir mjer. Veiztu, hvað hún muni vilja mjer?

*Guðný.* Nei, það veit jeg ekki. En ef hún talar um vinfengi okkar, þá svaraðu henni djarflega, og segðu henni öldungis eins og er.

*Halldór.* Vertu viss, góðin mín, jeg skal ekki dylja hana neins. En hvar ætl' hún sje.

*Guðný.* Farðu inn í baðstofu og spurðu fólkið eptir henni. Við Þrúður komum á eptir, og látum eins og við vitum ekki af þjer.

*Halldór.* Það er gott. (Hann fer).

*Þrúður.* Skárri er það nú kvonbænadagurinn að tarna. Ha, ha. Jeg held við megum muna eptir honum á endanum.

*Guðný.* Já. Það gleður mig þó, að hann Þórður fær mig ekki. Hann sem allur er í maurunum.

*Þrúður.* Hann er þó konungborinn hjá honum Bjarna.

*Guðný.* Já, minnztu ekki á ósköpin. En við skulum nú koma inn í baðstofuna. (Þær fara).

## *Annað atriði.*

### Þórður.

*Þórður.* (Kemur inn og sezt niður við borðið). Nei, það ætlar að verða merkisdagur að tarna. Skárri eru það hryggbrotin! Fyrst Bjarni — svo jeg. — Það er ljóta nornin, hún Oddný! — Svona eru þessir kvennvargar. Því segi jeg það. — En ætl' jeg hafi nú misst svo mikið? Jarðirnar. Já — þær eru svei mjer þá ekki teknar upp úr grjótinu. — Jæja, víðar er guð en í Görðum, segir hann faðir minn stundum. Það vill mig þó einhver á endanum. Hún elskar líka einhvern annan hún Guðný, Það heyrði jeg á henni áðan. Það er bezt hún fái hann. Það er líklega einhver kjólmaðurinn, sem lifir á okkar súrum sveita, bændagarmanna. Verði þeim að góðu. — Jeg held jeg sje nú búinn að ljúka erindunum. (Hann tekur hattinn sinn, og gengur um gólf). Jeg vildi hann Árni kæmi inn, jeg vildi þó geta kvatt hann. Hann á bágt að eiga svo ráðríkann varg fyrir konu, eins og hún Oddný er.

## *Þriðja atriði.*

Þórður. Árni. Oddný.

*Árni.* (Kemur inn og er alvarlegur). Nú leiðist þjer þó Þórður minn, jeg sje það. Þú ætlar á stað, sem von er. Þetta fór annars mikið báglega.

*Þórður.* Það var ekki þjer að kenna, Árni minn. Jeg er þó miklu ánægðari með það, að jeg má, ef til vill, eiga þig að, ef mjer liggur á seinna.

*Árni.* Já, Það er víst. Jeg skal allt af vera þjer innan handar, það sem jeg má, en það er lítið.

*Þórður.* Jæja. Þá þykir mjer samt betur farið hingað, en heima setið.

*Oddný.* (Kemur inn og er fasmikil nokkuð. Hún heyrði seinustu orð Þórðar). Jú, það var betur farið, en heima setið. Eða hvað eruð þið nú að malla? Má jeg vita það?

*Árni.* (Bistur). Nei, því skal jeg ráða, að þú skalt ekki vita það til eilífðar.

*Oddný.* Sussu, sussu. Þar kom það. Þú hefur líklega verið að gefa honum Þórði jörð fyrir konu, og jeg er viss um, að hann vill það eins vel, og hana Guðnýju.

*Árni.* Ekki skaltu kæra þig um að svívirða manninn saklausan í mínum húsum.

*Oddný.* En í mínum húsum má jeg það. Er ekki svo?

*Árni.* Ráddu. En nú sje jeg, hvað er. Þú ætlar til, að jeg gefi Þórði jörð, en sjálf ætlar þú að gefa honum hana Guðnýju.

*Oddný.* Nei, nei. Jeg gef honum eilíft afhögg, eilíft afhögg. Fari hann með það.

*Árni.* (Reiður). Þú vilt víst heldur gefa hana stráknum, honum Halldóri! Það væri nú hvað eptir öðru, að þú gjörðir það, sama daginn og þú neitar honum Þórði um hana.

*Oddný.* Já víst væri það rjett. Þau elska hvort annað; það veit jeg nú með vissu. Og hvað geturðu sett út á hann Halldór?

*Árni.* Hvað ætl' jeg geti sett út á hann. Manninn sem ekki á utan á sig fötin, svo það megi heita.

*Oddný.* Jú; auðurinn; það er það, sem þið Þórður horfið allt af í. En ef hann fær hana Oddnýju, þá fær hann líka nóg með henni, vona jeg.

*Árni.* Það vona jeg. En jeg vona líka, að jeg haldi í jarðaskikana mína, og ráði þeim.

*Oddný.* Jeg vona jeg ráði þeim þó með þjer.

*Árni.* Jú jú. En ertu búin að gefa honum Halldóri þínum hana Guðnýju?

*Oddný.* Ónei. Jeg gef engum hana Guðnýju án þinnar vitundar og samþykkis.

*Árni.* Þú hefur líklega komið inn til að fá það. En ekki er þó kjóllinn síður á honum Halldóri enn.

*Oddný.* Jeg veit það, því jeg er nýbúin að tala við hann. En jeg er nú ekki eins föst við kjólinn, og þú ert við auðinn.

*Árni.* Það er gott. Er þjer þá alvara að gefa honum Halldóri hana Guðnýju?

*Oddný.* Mjer alvara. Hef jeg nokkurn tíma farið fram á það? Þjer er óhætt að velja manninn handa henni.

*Árni.* Nei, nú skalt þú hafa fyrir því næst.

*Oddný.* Á jeg þá að gefa honum Halldóri hana?

*Árni.* Jú, gjörðu svo vel.

*Oddný.* Viltu ekki gjöra það sjálfur; því þá verður því ekki riptað?

*Árni.* Bíddu við. Þú skalt þá fá viljann þinn í þetta skipti. Hver veit nema .... (Hann rýkur út).

## *Fjórða atriði.*

Oddný. Þórður.

*Þórður.* (Hefur allt af verið að núa hendurnar, á meðan þau töluðu saman, hjónin, og stígið fram á fótinn). Mikið gengur á.

*Oddný.* Það er von þú segir það, og allt saman er það þjer að kenna.

*Þórður.* Svo er það.

*Oddný.* Já, svo er það. Við höfum aldrei yrðst fyrri, hann Árni minn og jeg, og erum við nú búinn að vera saman í rúm 20 ár.

*Þórður.* Það var þó merkilegt.

*Oddný.* Jú, þú ert merkilegur að koma slíkum fjandskap á stað.

*Þórður.* Rjett er það.

*Oddný.* Mjer lízt þú þegir, og hugsir um auðinn þinn; því þú hefur ekki vit á að skammast þín.

*Þórður.* Jeg skal fara, húsmóðir góð.

*Oddný.* Ekki skipa jeg þjer út. Þú þarft, ef til vill, að tala eitthvað meira við manninn minn.

*Þórður.* Vera kann, að svo sje. Hann er valmenni.

*Oddný.* Satt sagðirðu það, þó það hafi átt að vera háð.

*Þórður.* Jeg sagði það í alvöru.

*Oddný.* Látum það gott heita. (Við sjálfa sig). Þetta fór ver, en vildi jeg. Hann reiddist, hann Árni minn, og nú rekur hann þau saman á augnabragði. Jeg ætlaðist þó ekki til þess. En jeg vildi einungis leika á þá. — Jæja nú skal jeg gjöra gott úr því öllu. Halldór er í rauninni allra vænsti piltur, og getur orðið merkismaður. Þetta skal allt verða honum til láns, ef jeg má ráða. Kemur hann ekki þarna með þau öll?

## *Fimmta atriði.*

Oddný. Þórður. Árni. Halldór. Þrúður. Guðný.

*Árni.* (Kemur inn með Halldór, Þrúði og Guðnýu). Setjizt þið nú niður þarna, börn. (Þau setjast). Hún Oddný mín ætlar að tala við ykkur.

*Oddný.* (Alvarleg). Leyfirðu mjer þá að tala, eins og mjer býr í brjósti, hjartað mitt. Jeg ætla ekki að gjöra það án þíns leyfis.

*Árni.* Jú talaðu. Ráddu nú hjeðan af!

*Oddný.* (Gengur til Halldórs). Jeg veit, hvað þú hugsar núna; þú heldur sumsje, að jeg muni

ætla að atyrða þig. En það er ekki, Halldór minn; þessi dagur er orðinn lánsdagur þinn. Jeg gef þjer hana Guðnýju litlu, og gjöri það með fullu leyfi hans föður hennar. Við skulum síðan styrkja ykkur til að reisa bú í vor.

*Árni.* (Er kominn til þeirra). Ykkur er óhætt að reiða ykkur á það, börn, að þetta er full alvara okkar. Jeg gef ykkur Hjáleiguna okkar með búinu, og það skal jeg allt afhenda ykkur í vor.

(Þau Halldór og Guðný falla í faðm foreldra hennar, og gráta fögrum gleðitárum. Þórður stendur höggdofa úti í horni og snýr að þeim bakinu, og er að velta hattinum milli handa sinna. Þrúður situr hjá, og horfir með ánægjusvip á allar aðfarirnar).

*Árni.* (Glaður). Setjizt þið nú öll niður, börnin góð. Við skulum gjöra okkur glatt í huga. (Gengur til Oddnýjar, og klappar á öxlina á henni). Hvernig þykir þjer nú að fara hjartað mitt?

*Oddný.* (Glöð). Óskög vel, hjartað mitt. Það er ánægjulegt að gjöra vel.

*Þórður.* (Gengur að Árna, og er með fýlusvip). Jeg held mjer sje of aukið hjerna. Jeg gjöri ekki annað en skemma gleðina ykkar, og....

*Árni.* Nei, þú ert einmitt orsökin til hennar. Hún Oddný mín sagði áðan, að jeg mundi vera

að gipta þjer einhvern jarðarskrokkinn. Það er bezt að láta það nú sannast, og gef jeg þjer þá Bótina til minningar um þenna dag, og í þakklætis skyni fyrir komuna hingað og allt, sem af henni hefur flotið.

*Þórður.* (Glaður mjög). Jeg þakka þjer fyrir höfðingsskap þinn. Þetta var meira, en jeg átti skilið. Mjer er sem jeg sjái framan í gamla karlinn, þegar jeg kem heim, og segi honum frjettirnar. Ha, ha, jeg ætla að fara, og flýta mjer til, að gleðja hann sem fyrst. Verið þið öll blessuð og sæl. (Hann hleypur til að kyssa fólkið, og bæði hann og hinir eru hlæjandi. Að því búnu hleypur hann út með allra mestu kátínu).

*Árni.* (Kallar á eptir honum hlæjandi). Á morgun skal jeg senda þjer gjafabrjefið fyrir jörðinni, Þórður minn.

## *Sjötta atriði.*

Árni. Oddný. Halldór. Guðný. Þrúður.

(Þau horfa öll hlæjandi á eptir Þórði).

*Árni.* Aldrei hef jeg sjeð neinum manni þykja eins vænt um jarðarskika.

*Oddný:* Þetta sagði jeg þjer. Hann bað auðsins, en ekki hennar Guðnýjar.

*Árni.* Já, jeg sje það núna.

*Oddný.* Eigum við nú ekki að fara inn í baðstofu, og drekka okkur dálitinn kaffibolla á eptir, og tala saman okkur til gamans. Það er svo kalt hjerna frammi.

*Árni.* Já, það lízt mjer vel á, hjartað mitt.

(Þau fara öll, nema Þrúður verður eptir og snýr sjer að tilheyrendunum, og segir,:

Ekki verður allt
með auði fengið:
gulli glóanda,
nje gersema fjöld.
Ei verða ástir
óspiltra meyja
silfri seldar,
þó sjelegt þyki.

Opt eru atvik
einnar stundar
aflmeiri öllu,
en íta ráð.
Ræður ekki maður
þó ráða virðist
forlaga flugi
firða lífs.

Ást, sem er byggð
á elsku hins góða,
og virðingu fyrir
því, er vel sæmir,
sterkust er alls
í stundaheimi;
sigrar hún æ,
þó síðar verði.

